Jón Borgfirdingur.

# Stutt Ágrip

um

# Skálhollts-Stóls Jarda-sölu, ásamt Fasteigna-Pant,

og

# fyrsta Tilkalls-Rett fyrir Peningalán.

Til gefins útdeilíngar, og undirvísunar almenníngi útgefit.

Kaupmannahöfn 1785.

Prentat af A. F. Stein.



Hvorsu miøg vor nádugi konúngr, hafi látid ser vera umhugat at vidhiálpa Islandi í þeß núverandi miklu bágindum, siezt ei einúngis af Hanns mørgu gæzkuríku og náqvæmu útrettíngum, til at hugsvala og forda þeim er í seinazta elldgosi mist hafa eignir sínar og heimkynni, helldr og einnin af þeirri umhyggiu er Hann borit hefir fyri því, at allt Landit yrdi sem ríkugligazt forsorgad med matvælum, ás samt timbri og ødrum naudsynium, til vidreystar þeim, er skada lidu af jardskiálftunum í fyrra sumar.



Þó

Þó framſkín einna helzt Hanns konúngligu hátignar mikla mildi þari, at Hann borit hefir ena náqvæmuſtu kóngliga umhyggiu fyri því, at ſú gudliga lærdóms-ſtiptan, er híngat til hefir verid ad Skálhollti, yrdi í allann máta ſem bezt, ſett á ſtodugann og faſtann fót, ſvo at hvorki Biſkupinn og ſkólans Kennendr, ne hellðr ſkólans læriſveinar þurfi af hordum áruin, útiſtandandi jardarſkulldum hiá leigulidunum, biſkupsſtólſins misjafnri fyriſtodu og medferd, og odru þvíliku, at óttaz fyri miſsir edr ſkorti í því, er ſerhvorium þeirra er lagt til uppheldis. Og vegna þeſsa, hefir Kóngr vor allramildilegazt heitid at gefa Biſkupinum af ſínum egin Kaſſa, árlig laun, er ſómi embætti hanns, og ſkólans kennendum miklu meir enn þeir nockurntíma ádr fengit hafa, ſem og einnin at leggia ſkólaſveinunum, ſem eptir núverandi tilſkipan geta verid á þeſsarar lærdóms-ſtiptunar olmuſu, meira í peníngum til uppheldis, enn þau matvæli koſta, er hvorium pillti hafa ad fornu lagi ætlud verid. Auk þeſsa fær nú Biſkupinn áſamt Skólans kennendum og ſiálfum

fúm ſkólanum, miklu vænni og hentugri húſa-kynni, enn þeir nockurntíma ádr, eptir lanz-ſid og áſtandi, gátu fengit.

Fyri allt þetta, hefir konúnglig hátign til ſín tekit allt Skálhollts Stóls jardagótz, ecki til þeß at hallda því framvegis, og ſetia yfir þat umbodshaldara, eins og annat kóngs-gótz í landinu, helldr til þeß at veita innbyggendum lanzins, ennþá nýiann velgiorníng, og tækifæri til at geta med enum beſtu kiorum keypt ſer þeßar jardareignir, og hvoria jord ſerílagi, ſvo at ſerhvorr dugandismadr, er híngat hefir verit leigulidi, getr nú eignaz ábýlis-jord ſína, líka og getr ſerhvorr annar velmegandi madr, ſem rád hefir til og vilia, med áviníng brúkat penínga ſína, til þeß at kaupa med þetta jardagótz, er nú verdr ollum bodit vid almenna auctión, og er því þetta miog ſvo hentugt tækifæri, ſem í Íslandi opt hefir verid eptirþrád, en gafzt þó ecki fyrri enn nú.

En ſvo at allir megi þeß adnióta, og til þeß at þeir, er bióda villdu í jardirnar, ſkuli ei ofþýngiaz med því at greida ſtrax af hendi

 fullt

fullt andvirdi þeirra í peníngum; þá hefir Kongúngr leyfi gefit, at meginhluta kaupverdsins, megi lána eigendunum med enum bestu kiorum, unz þeim se hægt um at borga þessa skulld, þó svo at jordin standi Kóngi í pant, og jardareigandinn gialldi Kóngi í stadinn fyri landskulld og leigur, árlega 4 rd. courant í rentur, af serhverium hundrad ríkisdölum, er óborgadir eptirstanda í jordinni af kaupverdinu. Þess vegna er þetta hit sama og þó Kóngr lánadi undirsátum sínum á Islandi peninga til þess at kaupa med þetta jardagóts, med því móti, at jardirnar standi í pant fyri því sem lánat var; þó er, til þess at einfalldlíngar ecki leidi ser í hug, at jardirnar, edr þeirra eignarrettur, verdi ókeypis burtgefinn, skipat í einum prentudu skilmálum, med hverium þetta stólsgóts verdr selt, at tiltekinn part af kaupverdinu skuli smámsaman borga, ásamt árlegum rentum.

Þetta rentugialld, sem ennþá er ei almennt ordit á Islandi, er at ollu skipat, eins og brúkad er í Danmorku og Norvegi, og í raun rettri er landskulld á Islandi hit sama og rentur af jardar-

jardar-verdinu, þó er hún sialdan jöfnud eptir jardargædunum, og því er hægra at borga rentur af viþu kaupverdi, er verdr eptir því nikit edr litid, sem jordin er dýr til, enn lands-skulld og leigur, einkum á þeim jordum er fyrrum vóru hátt skulldsettar.

Svo er annars ástadt med pantverd og rentur í fasteignum, at serhver fasteign er metin eptir því mikilsverd, sem hún er á sig komin; en þurfi eigandinn peníngaláns vid, annathvort til at bætra þeßa eign sína med nýium atbúnadi og tilfæringum, edr og til annars, þá hittir hann sem optazt þá menn fyri, er giarna vilia lána, og hagnýta ser svo peninga sína, at þeir at ollu óhultir, geti vid þá áunnit algengar rentur, sem í vors konúngs ríkium og londum eru 4 rd. árlegá, af serhvorium 100 ríkisdolum, því meira má lánardrottinn ecki heimta, þó hinn er til láns tók, med gódri hagnýtíngu græði á peníngunum tvefaldt, iá tífaldt meira. En til þeß at lánardrottinn megi óqvídinn vera, fyri því er hann lánadi, og ætíd viß um fullt andvirdi þeß, hvornin sem fara kynni, þá verdr

sá, er til láns tók, at setia hinum pant í fasteign sinni fyri því er hann fekk til láns, og sá honum pantbréf sitt, sem svo er stílat, at lánardrottinn skuli öllum fremr, er einhvoriar krosur hafa kynnu, eiga fyrsta tilkall til pantgótzins, hiá þeim er til láns tók, edr setti fasteign sína í pant; eins er í pantbrefit skrifat, at þegar lánardrottinn krefst aptr skullda sinna, skal hann láta skulldunaut sinn vita þat ádr í tækann tíma; svo at hann á medan, geti útvegat ser annarstadar peníngalán; þó skal þínglysa öllum þvílíkum pantbrefum á næstá þíngstad, í hvörs sókn fasteignin edr jördin liggr, egi þau fremr at gillda, enn annara lánardrottna skulldabref og krosur, því se þeim ei á þíngum lýst, er hætt vid svikum og prettvísi, bædi med því moti, at sama pantgótz verdi 2var pantsett med sama fyrsta tilkallsretti, líka og einnin at einhvör sem þyrsti peninga vid, kynni med prettum at taka meira til láns uppá fasteign sína, þegar pantinum ecki er þínglýst, enn fasteignin sídan hrycki til at borga.

Þetta

Þetta nafn fyrsti tilkalls-rettr, merkir þat, at lánardrottinn, er penínga lánadi odrum uppá pantbref í fásteign, hefir fullann rett til, ecki einúngis at selia pantgótzit, þegar skulldunautr hanns getr ei borgat, þó eptir lögligri lagasókn og dómi (sœr þá skulldunautrinn þat sem yfir hefir af verdinu, þegar lánardrottinn fyrst hefir fengit sitt), helldr og einin, þegar skulldunautr hanns er fleirum skulldugr, og hann annathvort deyr, edr og ecki megnar at borga þeim ollum, en fasta- og lausa-gótz hanns verdr selt til at borga med skulldirnar, er þó sá, er lánadi honum uppá fasteignarpant og fyrsta tilkalls-rett, ætíd viß um at fá borgada penínga sina ollum fremr af verdaurum pantsins jafnvel þó enginn af hinum fái skulldir sinar. Þvílíkann fyrsta tilkalls-rett hefir Kóngr fyri þvi, er hann nú lánar í kaupverdi jardanna, og þeßvegna verdr at borga þat, sem tiltekit er í prentudu skilmálunum, af þvi er kóngr lætr standa óborgat uppá pant í jordinni, nær sem ad eigandinn vill hana odrum selia, og veitir þat sialdan ordugt, þegar einhvorr vill jordina

 kaupa,

kaupa, því pantbrefit getr hann meir enn svo útleyst, med því er hann seldi jordina fyri.

Margfalldann hagnad hefir bædi lánardrottinn og skulldunautrinn af þeßum fyrsta tilkalls-retti, og líka góda viðu í skulldaskiptum, se at ollu vel og logliga gætt, því tilkallsréttinn má adgreina í fyrsta, annan og þridia tilkalls-rett, se pantgótzit af svo miklu verdi, at því megi sambióda, til dæmis: einhvort kann at eignaz í arfahluta 60 hundrada jord, sem virdt er med kúgilldum, húsum og odrum hlunnindum á 480 rd., þat er hvort jardarhundrad á 8 rd., sem annars getr verit meir eda minna verdt, en nú vill hann taka til láns 100 rd., og setr hann þá lánardrottni sínum jordina í pant med fyrsta tilkallsretti bædi fyri 100 ríkisdolunum er hann til láns tók, og líka fyri 4 rdm. í árlegar rentur af þeim. Ennþá þarf hann á peníngum at hallda, og geta þeir, sem þá ega fyrirliggiandi, óhultir lánat honum ennþá 100 rd., uppá pant og annan tilkalls-rett í jordinni, þegar þeir ádr vita fyri víst, at hún er ei ádr pantsett nema fyri 100 ríkisdali, og hefir þeßi

seinni

seinni lánardrottinn, alla ena somu vissu og hinn fyrsti, þó skal í sterfbúum, edr og þegar skullds unautrinn verdr at selia þessa fasteign sína, fyrst borga þeim, er fyrsta tilkall hefir og því næst hinum er hefir hit annat. Allt og hit sama er at segia um hinn þridia paut og tilkall, sem eins gott er, ef lánardrottinn sier ser óhult at lána ödrum þaruppá peninga.

Eingu ad sídr hefir þó sá er pantsetti, fyri slíkum skuldabrefum fullkominn eignarrett á jordu sinni, og getr allt eins notad ser hana til ábýlis, eptir því sem hann vill. Þess vænaz menn og at flestir muni hæglega sied geta hagnad þann allann, er þessi tilskipan veita mætti, gæti hún nú ordit almenn á Íslandi, því allir vita at þat gengr optaztnær svo, at þurfi einhvorr jardeigandi penínga vid til naudsynia sinna, er hann optaztnær naudbeygdr til þess at selia fasteignir sínar, og missir hann vid þat allann sinn eignarrett, sem ecki þyrfti, ef menn þeckti og hagnyttu ser áminztann pant-rett, sem auk annars færir þat gott med ser, at sá er einhvoria jord á, er þyrfti umbótar vid, annathvort til rudníngs og vatzveitínga, ellegar einhvorrar betri jard-

jardarrækiu, getr med þeßu móti fengit til láns uppá jordina, svo mikit og lítid af peníngum, er hann til þeßa kynni naudsynlega at vidþurfa, og vid þetta blómgaz hondlun og jardyrkia í ollum londum, og telst þat jafnan óhamíngia, bædi ef peníngar verda ei lánadir odrum, fyri pant og logligar rentur, sem og lika ef þeir ei fá,t til láns, uppá slíka fullvißu.

Til þeß at hallda megi náqvæma ordu og reglugiord med panta og lán uppá fasteignir í Islandi, þá er væntanligt, at í hvorri sýslu verdi tilskipadar bækur og protocollar, svo at sérhvorr, er lána vill penínga sína uppá pant í jardagótzi, vita megi, hvort hann óhult geti sett efni sín uppá rentur, og því skal í bækurnar skrifa bædi þínglýst pantbref, og serhvoria jord, sem fyri nockra skulld er sett í paut, til þeß at hvorr og einn geti spurt sig fyri, og fengit vißu um, hvort hann geti lánat jardareigandanum penínga uppá fyrsta tilkalls-rétt, eda hvort honum ennþá megi borgit verá, med hinn annan edr þridia.

Sú nýia tilskipan og reglugiörd, med Skálholls jardagóts, er nú verdr selt, gefr hit besta tækifæri til þess at pants og fyrsta tilkallsrettr verdi nú þecktr á Íslandi, eptir því sem nú var sagt, og nema kaupverd jardanna yrdu mestöll lánud kaupendunum uppá pant í siálfum jordunum, mundi flestum ordugt veita í þeßum bágindatídum, at eignaz þetta góts, en nú er þat, jafnvel fátæklíngum gefit, at verda jardeigendr, þared rentur og pant-rettr verda þegar tilskipadar og algengar í landinu. At sönnu tekr þat nockrum fresti, at allir til fullnustu þeckt geti gagnsmuni þá, er Kóngr vor leggr undirsátum sínum í hondur, med því at selia þeim allt stólsgótsid med þeim kiorum, er preniudu skilmálarnir sýna, þó vænaz menn at skynugt fólk útá Íslandi af ollum stettum, muni hæglega skilia, at tækifærit til þeß at geta eignaz svo mikit, og yfir höfud at segia, gott jardagóts, se landinu miög svo í hag, sem og einnin at jardaborgunin er svo vægdarsamlega skipud, at hún ei med nockurri sannsýni kynni mildari ískaz, þar sem um kaup og söl, og þeßvegna einnin um borgun, er at giora. Líka mun hvorr skynsamr sveitamadr á Íslandi, sem á leigu-

leigujördum búit hefir, hæglega skilit geta, hvada letrir þat ecki se, at innistædu kúgilldi verda allztadar aftekian á stólsgótzinu, er nú skal seliaz, þó svo at eingum se bannat at taka leigu-kúgilldi af ødrum eptir samkomulagi, løgum og lanzvana; helldr skal nú naudúng oll med leigu-kúgilldi á þeßu gótzi, og allar þrætur um kúgillda-ábyrgd og uppbót, einn enda taka, og veitiz med því hvorium starfsomum bónda, enn fram-ar tækifæri til at ala ser upp fridann peníng til egin gagnsmuna, eptir því sem jörd hanns borit getr.

Sømuleidis eru vid þeßi jardasøl, allar qvadir, manzlán, hestalán og skylduferdir framvegis afteknar, þar ed eigendr jardanna, einúngis borga løgligar rentur af því er óborg-at eptirstendr í jördunum, og er þat konúngsins nádarsamligi tilgángr med oll þeßi gædakior, er innbyggendum lanzins veitaz í þeßum jarda-sølum, at jardyrkian batnat gæti, eptir lanzins ásigkomulagi, einkum þar menn vænaz, at margir sveitamenn og jardeigendr, sem nú helldr enn ádr, fengit geta náqvæmari uppfrædíngu á þeirra egin túngu, af mørgum gódum skrifum og bæk-

língum,

língum, giörla muni vita og þeckia þá miklu gagnsmuni, sem velskipud jardyrkia og góðr saudfiár-abli, getr þeim í greipar lagt, sem og einnin, at jardyrkian, hvornig sem velltaz kann, ætíd verdr innbyggendanna vißazti biargrædis-vegr, og óska menn at Jslendíngar allir, vilie því framar þeckiaz þau sannmæli, sem hin hellzta velgengni lanzins er undir því komin.

Jón Borgfirdingur.



